[Þess íslendska evangeliska
smábóka félags rit Nr. 31.]

# Stuttur Leidarvísir
til
# Avaxtarsams Bibliulesturs.

Samanntekinn af Mag. K. Møller, Dr. Theol.
Riddara af Dannebrógsordunni, Sóknarpresti til
Kisbeløvs og Vindebyes Safnada á
Lálandi.

Útlagdur úr Dönsku af útlegg. Nr. 21.

Þótt Gud tali til vor fyrir Náttúruna, sem er hans handaverk; þótt vér einnin í henni gaumgiæfa eigum hans helgu raustu, er þad samt óyggianligt, ad Gud talar lángtum skilmerkiligar og ljósligar vid oss í sínu opinberada Ordi. Vér getum gétstad á eins manns hugarfar og tilgáng, þegar vér athugum þær innréttíngar, sem hann gjørdt hefir í bæ sínum (Hússtiórn sinni); en þegar húsbóndinn med berum ordum segir til heimafólksins: þetta er minn vilje; þessi veri ykkar størf í húsi mínu; þessi laun hefi eg áqvardad yckur, þegar þid hafid þjónad mér; þá

skilur þad hann betur. Þannin talar Gud til vor allra í ordi síni, er hann hefir oss opinberad; hér hefir hann syndt oss til hvørs hann lét oss fædast í heiminn, hvad vér athafast egum til at þóknast hønum, og hvørs ver høfum ad vænta, þegar vér skiljumst vid heim þennan; og þessa hans rausku géta allir skilid, jafnvel einfeldníngurinn; eins og sonurinn skilur ord fødur síns og þiónn húsbóndans skipun. Vér egum ad sameina bádar þessar Drottins vegleidslur hvørja annari; gaumgiæsa egum ver ad vísu hans rausku í Náttúrunni; en athuga ættum vér einkanliga rædur hans í þeirri heilsgu ritníngu. Jesus sagdi oss: Lítid á fuglana undir himninum, hyggid ad akursins liljugrøsum (Matth 6, 26 s.) en optar sagdi hann: heyrid min Ord, (Matth. 7, 24 Luc. 6, 47; eg er ljós heimsins, hvør sem fylgir mjer, skal ecki reika í myrkrinu (Joh. 5, 24. 12, 47. 8, 12) og þetta ljós, sem hann qveikti handa oss, hvar finst þad hreint og skjært, nema í enni heilsgu ritníngu? En láttu þér ecki í hug koma, kristiligi medbródir, ad þessi Drottins raust, sem til þín talar í Bibliunni, sé einúngis þeim lærdu skiljanlig! ónei! sá lærdi, hlýtur líka ad gjørast sem barn, til ad géta skilid Jesu lærdóms himneskú einfeldni; líka verdur hann ad vidurkénna sitt andliga volædi; þ. e. finna hve stóra þørf hann hefir á Guds ordi, til ad géta skilid þá háleitari opinberun,

sem í því fólgin er; en sé sá lærdi uppfrœkadur af eginn vísindum, þá verdur hønum þad hulid, sem opinnbert er þeim einfalda. En sé audmýkt lærdómmum samfara, þá er hann vísðuliga gagnligur til at upplýsa þá myrkan stadi og ordatiltæki í Bibliunni, som ecki géta annad enn fylgt so gamalli bók, sem hún er. En eingu ad sídur gétur sá gudliga sinnadi leikmadur skilid biblíunnar veruliga innihald, eins og sá lærdi — fyrir því, ad ecki hefir manneskiuligur vísdómur, helldur Guds andi opinberad oss þetta. Sá lærdi gétur sagt oss nockud um þad, hvørninn sólunni háttad sé, og hve lángt hun sé burt frá jørdunni, o. s. fr.; en einfeldníngurinn gétur þó eins vel og hann leidbeinst vid sólar liósid, og endurnærst af þess hita. Þannin gétur sá lærdi sagt oss margt og mikid um þad túngumál, í hvøriu þær helgu bækur skrifadar eru, og á hvørium tíma og stad, hvad leikmenn ecki vita; en þad eylífa lífsins ord, sem finnst í ritníngunni, þeßi nádar sól, gétur eins vel kastad sínum velgiørdarríku geislum í sálu einfeldníngsins, sem þess lærda.

Sá adaleiginligleiki, sem allir Biblíulesendur, lærdir og ólærdir, verda þessvegna sameginliga ad hafa, þegar þeir uppbyggiast vilja af Guds ordi, er: Audmykt; hennar krafdist Jesús af øllum tilheyrendum sínum (Matth. 11, 25); og hennar krefst Bibliann enn nú af øllum lesurum

sínum; og hvørt helldur vèr spyria kynnum: hvør hefir gèfid osß bibliuna? eda: til hvørs er hún osß gèfinn? so er osß þad hægt ad skynia, ad audmýkt er hinn heldsti og mest ómissanligi eginnligleiki hennar lesurum; því þetta er skilmálinn, undir hvørjum hin barnliga trú á Gudi og hans ordi komin er. Bibliunnar lærdómur er ecki uppgøtvadur af mønnum, helldur er hann opinberadur osß af Gudi. Hann er þad sem hèr talar vid osß; hann, sem hèr kunngiørir osß sitt rád og vilja til vorrar sáluhiálpar, þarum høfum vèr Guds eginn vitnisburd; þared hann opinberadi sig fyrir osß í sínum syni Jesú Christo; því Jesús sannadi siálfur, ad Gud væri í sèr, taladi fyrir sig, verkadi fyrir sig, þad sannadi hann fyrst þarmed, ad hann uppfyllti á siálfum sèr øll þau fyrirheit sem Fedrunum vóru gèfinn, þarnærst med því, ad hann í vina og óvina augsýn framdi guddómlig dásemdarverk; í þridja lagi med því, ad hann var deyddur á krossins gálga, uppreis lifandi af grøfinni, og loksins med því, ad hann med sínum tólf vitnum, sem í heimsins barna augum vóru smælíngiar, enn þó útbúnir med krapti af hædum, í tráss øllum mótspyrnum frá myrkranna ríki, útbreyddi sitt Evangelium á jørdunni; og þetta sannar hann enn nú þann dag í dag er; þar ed hans kyrkja, þótt yfirfallinn verid hafi af mørgum øflugum fiandmønnum, hefir samt eftir hans fyrirheiti (Matth. 16. 18)

í ígegnum so mørg árahundruð staðið og stendur enn, so að helvítis makt fær henni ecki um koll kastað; já, þú kristin manneskja! vilji þú fá þá bestu røksemd fyrir Jesú lærdóms guðdómliga uppruna, røksemd, sem einginn efasemd kollvarpað fær, so setadu í Jesú fótspor, gáktu þann veg, sem hann vísaði þér; og þegar þú þá kémst að raun um hvørsu Jesú Evanglium kénnir þér að þeckja það sanna meðal til þinnar friðþægíngar við Guð, og hvørsu það orkar að endurbæta hiarta þitt, að hugga þig í nauðunum, að styrkja vonina í sálu þinni um eylífa sælu, þá munt þú viðurkénna með Páli (Róm. 1, 16) að það se Guðs kraptur til sáluhiálpar øllum þeim, sem trúa; þá skaltu finna sannleika þeirrar Jesú fullvissunar (Joh. 7, 17) ef nockur giørir vilja þess, sem mig sendi, hann skal komast að raun um, hvørt lærdómurinn sé af Guði, eða eg tali af sjálfum mjer; án þeska vants uppá Jesú lærdóms guddómliga uppruna í hiarta vóru, duga að eingu enar aðrar røksemdir, hvað kreptugar sem annars vera kynnu; þá látum vér oss feikja af hvørjum lærdóms vindi. En hafir þú sjálfur christinn maður lært að þeckja Jesú Evangelii krapt í sálu þinni, þá stendur trú þín stødug í storminum; þá rísur einginn spémunnur sannfæríngu þá úr hiarta þínu, að Jesús sé oss af Guði géfinn til vísdóms, réttlætis, helgunar og endurlausnar; byggðu þessvegna trú þína á Jesú

Christo; og þegar þú veitst, ad hans ord er Guds ord, so veitstu líka, ad spámennirnir, sem spádu um hann, og Postularnir sem vitnudu um hann, kunngiöra oss ord Drottins. Því Christus er Biblíunnar höfudkjarni og byrníngarsteinninn, á hverjum öll byggíngin hvílir. Spámennirnir tölúdu um hann, sá sem þann, er koma skyldi, eins og Postularnir prédikudu hann, sem þann, er kominn var, og siálfur befir hann stadfest hvorttveggi þessara orð. Um Spámennina segir hann (Joh. 5, 39) þeir eru þad, sem vitna um mig og eingiinn sem trúir á Drottinn siálfan, getur efast um ad þeir sem þegið höfdu hans anda, hafi kunngiört oss hans ord. *) Sé þad þessvegna siálfur Gud, sem talar til vor í heilagri ritníngu; sé þad sá heilagi, sem hér talar til syndaranna; mannanna Fadir, sem hér kunngiörir börnum sínum, þad sem þau so mjög þörfnudust ad vita, og þau án hans ávísunar aldrei hefdu gétad vitad um seingid; sómir oss þá ecki med ondmjúkt, med helgri lotníngu, med barnligu trúnadartrausti ad heyra hönum? Hvör veit þó eginliga, hvörsvegna vér erum fæddir í heiminn, nema Gud, sem lét oss fædast hér? einasta sá

---

*) Jesus baud líka Postulunum (Joh. 15, 27 Post. G. 1, 8) seigiandi: þér skulud og bera vitni af mér, því þér hafid frá upphafi hiá mjer verid. Utleggiarinn.

eingétni sonur, sem var í føðurſins skauti, gat opinberað (Joh. 1, 18), og hefir opinberað oſs það; hvør gétur upplýſt það myrkur, sem hylur legſtaði enna dauðu, nema ſá alvíſſ, sem í einu yfirſkoðar tíðina og eilífðina? Því einginn ſer upp til himna, nema ſá sem kom frá himnum, mannſins ſon, sem er á himnum (Joh. 3, 13) hvør gat ſagt oſs hvørninn vér ſyndarar friðþægiaſt áttum við Guð, nema Guð ſiálfur, ſá heilagi, hvørn vér með ſyndum vorum móðgað høfðum? Én auðmýkt þarf til þeſs að finna vora ſtóru þørf á guddómligri opinberun. Sá drambſami finnur hana ecki, og gétur ecki fundið hana; nei! hønum er Bibliann að eins fótakefli eitt, einn áſteytíngarſteinn. Í Bibliunni hittum vér þúngſkilda ſtaði; ſá drambſami hneyxlaſt á þeim og leggur Bibliuna frá ſér. Sá auðmjúki hugsar: Guð hefir aliðønn, og elur enn fyrir ótøluligum fiølda barna; og þau eru í þeim andliga fullkomleika mikið miðhátt komin; það ſem eg ſkil ecki, gétur annar, ſem hefir betri gáfur, ſkilið; eg ſkil ſómikið ſem eg þarf á að halda; og fyrir það vil eg þacka Guði, og þegar eg trúliga með andakt heſi Guðs orð um hønd, tek eg meiri og meiri framførum. Í bibliunni finnum vér að víſu leyndardóma, til dæmis: að Guð var í Christo. Hinn drambſami ſegir: það ſkil eg ecki; og þeſsvegna er það ecki ſatt. Hinn auðmjúki þaráméti þinkir eg þecki ecki ſvo mikið ſem mig ſiálfann,

mína eigin sálu; og hvørninn ætti ég þá að vænta at géra fullstilid þann Óendanliga? Í Bibliunni finnum vér frásøgur um dásemdarverk; sá hofmodugi þeinkir: eg hefi aldrei séd þvílíkt, og þessvegna getur það ecki satt verid; en sá auðmjúki, sem finnur þørf sína á guddómligri opinberun, skoniar líka, að, ef trú vor á opinberuninni á að verða stadfest, hlaut Guð á yfirnáttúrligann hátt að láta sig í ljósi fyrir oss. Er þá ecki héraf auðsært, að auðmýkt er sú fyrsti eginleiki, er finnast skal hjá kristiligum Biblíulesara? en nauðsyn auðmýktarinnar munum vér þó lángtum betur vidurkénna, þegar vér athugum, í hvørium tilgángi Guð gaf oss heilaga ritníngu. Til hvørs er oss þá Biblían gèfin? **hún á að vera endurminníngar-teikn um Guðs heilögu nærveru meðal barna sinna og um það, hvørsu føðurliga hann hefir lådað sig eftir þeirra breiskleika.** Vér sjáum einnin Guð í Náttúrunni, þar heyrum vér líka hans raúst; en manneskjan er breisk sandsalig skèpna. Hér ni er svo hætt við að gleyma þeim ósýniliga Guði. Þetta kénnir oss gjørvøll sú sagnafræði, sem høndlar um eðli og háttu manneskiunar. Guð opinberaðist enum fyrstu manneskjum, eins og þeirra skapari og viðhaldari, eins og þeirra løggjafari og dómari; en hve fljótt vann myrkrið sigur yfir ljósinu! sá einasti sanni Guð sèl þeim

úr minni. Manneskjan fékk til viðbjóðsligrar afguðadýrkunar og tilbað skepnuna í stað Skaparans — og — þegar spillíngin fór í vöxt, miskunaði Guð sig yfir sín villuráfandi börn, hann útvaldi sér eina þjóð, þá ísrailitisku, til þess, að hann á þann hátt, með sinni dásemdarfullu forsjón, viðhaldið gæti sannleikans ljósi, þángað til tímans fylling kæmi, þegar ljós þetta, á ný tendrað, gæti útbreyðst yfir öll lönd. Guð opinberaði sig því opt fyrir þessarar þjóðar ættgöfglafeðrum, fyrir Mósi, höfundi hennar ríkis og stjórnarforms, og fyrir þeim eftirfylgjandi spámönnum. En sem einn vitur faðir, sem smámsaman kennir börnum sínum meira og meira, lét hann ekki það fullkomna ljós allt í einu skína, heldur setti það fyrst sem lampa á myrkvann stað, uns það með lángsamliga vaxandi birtu upprann heiminum með og í hans syni Jesú Christo, sem sól í hádegisstað; en sé nú Bíblíann eitt staðfast vitni um mannligann breiskleika og hvörsu föðurliga Guð sig eftir honum lagar, eigum vér þá ekki með lotníngarfullu þakklæti og auðmjúkt að færa oss í nyt þessa Guðs sérligu vegleiðslu til vorrar sáluhjálpar? **Bíblíann er gefinn oss til að staðfesta trú vora á forsjónarinnar vísu og föðurligu leiðslu vorra kjara.** Hér sjáum vér Guðs máttku varðveislu bæði yfir hans Kyrkju yfirhöfuð, sem yfir sérhvörju hans barna, afmálaða fyrir augum

vorum; skyldi þér, kristinn madur! í hug falla sá þánki; hvert sá alvoldugi Gud hyrdi um manneskiur, sem eru mold og aska? þá láttu ena heil. ritníngu frœda þig um, hvad Gud ad verkum giørdt hefir fyrir mannkinskyns sakir, þá muntú skynja tign þína, þú munt undirtaka med David (S. 8, 5 samannborid vid Hebr. 2, 6) hvad er madurinn (hvørsu háleir hans áqvørdun), þar þú gódi Gud minnist hans! og manneskiunnar barn ad þú enniſt þad! skyldi efasemd vakna hiá þér, út af spillíngu Jesú safnadar, þá les þú heil. ritníngu, mun þá ángist og efi þverra. Hvørsu hryggilega leit ecki út fyrir Guds kyrkju á døgum Noæ, Abrahams og Elíæ? hve mikid myrkur drotnadi ecki í heiminum, þá Jesús kom, og nær var sannleikans ríki meir á fallanda fœti fyrir manna sjónum, enn þegar Jesús hieck á krossinum! en rættist þó ecki altid sá gamli málsháttur: þegar neydinn er stærst, er Guds hiálp nærst; vér viljum því aldrei efast um sannleikans sigur yfir lýginni, því ljósanna fadir lifir eylíflega, og Jesús er sá sami í giær og í dag og ad eylífu; Hebr. 13, 8, ef þú kristinn madur ert óróligur yfir þínum eginn edur vina þinna kjørum, þá lestu Abrahams, Jósephs, Davids, Jobs og margra fleyri gudsmanna søgur; og þú munt þá sémast ad raun um ad Gud reyndi opt sín børn og leiddi þau, um þyrnistráda vegi, en hann lét eingann til skammar verda, sem treysti

þsnum. Og er nú Gud ecki ætíd hiinn sami? Biblían er gefin oss til uppvakníngar og eflíngar voninni um eilíft líf í sálu vorri. Vér verdum ad vísu varir vid, þegar vér athugum raustu þá, sem talar í hiarta voru, ad vér erum skaptir til ædri áqvardunar, enn til þessa forgeingiliga jardneska lífs; en ecki gefum vér ætíd nógu vel gaum ad þessum innvortis dómara í oss. Heimurinn og hans dálæti eru oss of indæl; ángurvær efasemd og þrælsótti fyrir daudanum og gröfinni ſkelfir enn sandsalign manneskju, sem stjórnast skal af eigin mætti; og þetta er oss kunnigt af gjörvallri Mannkyns sögunni; en Gud hrærdist miskunar yfir breiskri manneskju; hann vildi ecki ad vér, vegna daudans ótta, lifa skyldum í þrældómi alla vora lífdaga (Hebr. 2, 15); hann vildi ecki, ad vonin um betra Líf — sú von, sem oss á vorri jardnesku pílagríms-reisu er só áríðandi, só ómissanlig, skyldi skeika hiá oss. Med sínu ordi giördi hann þessa vora von fasta og óbrygdula. Þeir trúudu fedur í G. T. hugguðu sig vid hana, í þeirra útlendíngs árum; þeir álitu sig eins og gésti og framandi á jördunni, ecki einúngis í tilliti til þess jardneska födurlands, hvert þeir yfirgéfid höfdu; Nei! Abraham vænti þeirrar borgar, sem grundvöll hefir, hvorrar byggíngarmeistari og skapari ad Gud er (Hebr. 11, 10) En — þetta var enn nú ad eins vonarinnar

morgunrodi. Jesus .... ; og þá veik all qvída-full eiasemd á burt; því hann svipti daudann sínni makt, en leiddi lífid og ódaudleikann í ljós med Evangelio (2 Tim. 1, 10); ættum vér þá ecki med barnligri gledi og þacklæti til Guds færa oss trúlega í nyt þetta eylífa lífsins ord, til ad næra og vidurqveikja þeßa sáluhiá pligu vor í hiørtum vorum.

Biblían er oss géfin, so ad Guds Vilji yrdi oss í henni kunngiørdur, sem regla og mæliþrádur fyrir vort þánkafar og breitni. Gud hefir skrifad sitt lømál í vorum hiørtum; heidingjar þeckja og finna þad; þared þeirra samvitska siálf ber þeim vitni, og þeirra þánkar áklaga eda afsaka hvør annan innbyrdis. (Romv. 2, 15.) En af náttúrunni er madurinn léttúdarfullur og breiskur; hvnum er so hætt vid ad gleyma því lømáli, sem Gud skrifad hafdi í hiarta hans; og holldligra og heimsligra gyrnda raust lætur hærra enn skylduverkanna; til at vekja og efla samvitskunnar raustu, gaf Gud oss ord sitt hid opinberada. Í því talar løggiafarinn siálfur til vor og segir; Þetta áttu ad giøra, þetta ad varast. Í því talar sá réttláti dómari vid oss og kunngiørir ad hrelíngar og harmqvæli skulu koma yfir alla þá, sem illsku drýgia; en heidur, vegsemd og fridur skuli hlotnast hvørjum þeim, sem go't giørir (Rom. 2, 9. 10); ættum vér þá ecki med heil-

agri lotningu ad hlýda á bodord þess ædsta yfirherra? en vér erum syndarar; vér hösum skort á þeirri hrósun, sem hiá Gudi gyldir. Au ædri adstodar gétum vér ecki haldid Guds bodord; vér vidurkénnum at lögmálid sé gott, og þess bodord heilög, rettlát og góð; en vér finnum þar hiá annad lögmál í vorum limum, sem mótstrídir voru hugskots lögmáli, og fœrir oss herleidda undir syndarinnar lögmál þad, sem er í vorum limum (Róm. 7, 12. 23). Hve ómöguligt væri oss þá ad fá stadist í strídi þessu, ef siálfur Gud ecki væri kominn oss til hiálpar! en nú er hann kominn oss til adstodar. Hönum sé lof!

**Heilög Ritning er gésin oss til ad boda syndurunum fridarins Evangelium;** hér verdur oss ként, hvörnin mannanna Fadir hefir reist sin föllnu börn á fœtur. G. T. spáir ad einn Frelsari koma skuli; hid N. T. kunngiörir: ad Frelsarinn sé kominn. Þetta er höfudinntak biblíunnar. Guds ord kénnir fyrst og fremst bædi hvörnig vér egum ad vera, og hvörnig vér af náttúrunni séum; þad fyrirskrifar oss háleitt stefnumid: einasta hreinhiartadir (seigir Þad) skulu Gud siá (Math. 5, 8) verid fullkomnir (í kiærleikanum) eins og ydar himneski Fadir er fullkominn (Math. 5, 48) verid so sinnadir, sem Jesus Kristur var (Philip. 2, 5). En hvörsu lángt vér eptir edli voru, þad er án stakligrar Guds adstadar, séum frá þessu takmarki,

það kénnir einnig heilög Ritning oss. Holdligt sinnislag er fiandskapur gegn Guði (Róm. 8, 7) af því það er ecki Guðs lögmáli undirorpið, það fær því og eigi orkað — hvað sem af holdinu er fædt, er hold (Joh. 3, 6). Holdliga sinnaður maður fær eigi þá hluti skyniað, sem eru af Guðs anda, því þeir eru hönum heimska og hann getur ecki þeckt þá, því þeir dæmast andliga (1 Cor. 2, 14. Þetta er sá speigill sem heilög Ritníng setur fyrir Syndaran til að speigla sig í. En hvört gegn væri að því, þó Ritníngin setti manneskjunum, sem af sínum egin kraptum eru breiskar og vanmátka, so háleitt stefnumið að keppast til; hvaða gegn væri að því, þó að hún hvetje oss til að stríða mót holdsins girndum og til að feta þann þraunga vegin sem leiðir til lífsins, ef hún ecki ásamt styrkti vora veiku krapta? En það giörir hún líka; því hún vísar syndaranum til hans, sem kominn er til að frelsa það sem fortapað var (Joh. 3, 16); ecki einúngis boðar Jesus öllum syndurum, sem girnast að endurbæta líferni sitt, Guðs náð; heldur hefir hann líka með sinu blóði giördt. hinn friðar boðskap gildann. Þegar nú syndarinn hlýðir Drottins kölun, auðmýkist af hiarta fyrir Guði, og í trúnni á Jesum, sættist við hann; so öðl- ast hann hugdyrfð og mátt til að hefja orustu mót syndugum girndum; því þá vaknar trúnaðar traustsins, elskunnar og þacklætisins heilagt

tilfinning í hans sálu; og þá framqvæmir Jesu Evangelium hiá hønum það, sem lsgmálsins einberu hótanir og skelfing ecki framqvæmt gat (Róm. 8,) Trúin á þeim krossfesta, og frá dauðum upprisna eflir sálu hans. Andi Drottins, sem hann fyrirhiet áhángendum sínum, styrkir hann í stríðinu; hann lærir að vaka og biðja, so ecki falli hann í freistni; hann verður eins og ritníngin að orði kémst, einn nýr maður, ný skepna (Eph. 4, 22 eftirf. 2 Cor. 5, 17); hann hlýðir Guði, ecki eins og þrællinn húsbónda sínum, heldur eins og barnið føður sínum (Róm. 8, 15). En eigi nú þetta fridarins Evangelium, sem Biblían kynnir oss, að verða ávaxtarsamt í hiørtum vorum; þá verðum vér með auðmýkt að færa oss það í nyt; því hvørnin giætum vér metið það mikils, þegar vér þeckium ecki þarf vora á því? hvørnin leita læknarans, þegar vér ecki finnum til neinna meina? og trúðu því ecki, kristin manneskja, að þessi hiartans auðmýkt fyrir Guði, sem hans orð krefst af oss, sé breiskleiki, eins og hinn drambsami meinar; virdtu fyrir þér Postulann Paul; enginn hefir auðmýkt sig meira fyrir Guði, en hann (1 Cor. 15, 9 eptirf. 1 Tim. 1, 12 eptirf.) Í sína egin forþénustu síndist hønum ekkert varið; Guðs náð í Christo Jesú var hønum alt. Var það máské breiskleiki hans? nei, hann megnaði allt fyrir Christum, sem giørdi hann sterkann; og hvør hefir erfiðað meira, þolað

meira fyrir Jesu nafns sakir, enn þessi audmjúki Postuli (Philip 4, 13. 1 Cor. 15, 10.)

Biblian er gésin oss af Gudi, ad hun verda skyldi sifeldt vidurhalds-medal vors andliga lífs, christiligs þánkafars og lífnadar., Eins og líkam-inn dagliga þarfnast fædunnar, so þarfnast og sál vor dagliga næríngar sínu háleitara lífi, lífi því, sem hún lifir í Gudi, og þvílíka fædu finnum vér hvergi so ríkugliga og yfirsljótanliga, eda so kraptuga og kjarnmikla sem í heilagri ritníngu. Í henni er ad finna alt, hvad sála vor þarfnast; einginn þecking er oss naudsynligri en siálfsþeckingin. Og Biblian er sá speigill; í hvorjum vér getum skodad oss siálfa. En ef vér nú hösum djörfúngu til ad gánga fyrir speigil þennann, og ef vér skögnunst inní þetta fullkomna frelsis-lögmál (Jac. 1, 25) og holdum því so áfram, þá lærum vér betur og betur ad þekkja hid sanna ástand sálar vorrar; því þar siáum vér vora heimugligustu þánka afmálada, med so ljós-um og vissum einkennum, ad vér megum gánga úr skugga um ad afmálanin á rétt heima hjá oss. Bibliu sagan er skírsla um manneskjunn-ar hiartalag. Þad er ecki einúngis sú útvortis manneskja í öllum hennar stödvum og kríngum-stædum, helldur sérdeilisliga sá innvortis madur med öllum sínum gódu og slæmu eginnleigleikum sem í henni er oss fyrir siónir settur; enginn er

so lágt, eda hátt stiginn í andligri reynslu, ad ecki géti hann í henni þekt siálfan sig; vér þarfnustum leidsagnar, til at finna þá réttu leid, á milli so margra villustíga, sem vort breiska hiarta og heimurinn sýna oss, en hér er lampi fóta vorra og liós á vorum stigum — hér geingur Jesus siálfur eins og hyrdir á undann hiord sinni; og aldrei getum vér farid villir vegar, medan hann er vor vegvísari; því hann er heimsins liós, og hver sem fylgir honum, hann geingur ecki í myrkrinu (Joh. 8, 12.) vér þarfnumst advorunar móti so morgum tálsnorum, sem heimurinn leggur fyrir oss; og í Guds ordi hefir þú, christin manneskja! þann trúfasta vin, sem varar þig vid hverju skéri, hverjum ásteytíngarsteini, sem þú fordast átt; Guds ord setur þér fyrir siónir so marga breiska, sem fellu frá á tíma freistíngannа, af því þeir forsómudu ad vaka og bidja; so marga þverskallada, sem hrøpudu í afgrunn fordjørfunarinnar, af því þeir forherdtu sig á móti sannleikanum. Bibliann inniheldur ótæmanligan fésjód hinna kroptugustu málsgreina, er so marga styrkt hafa á tíma freystíngarinnar, sem vardveitt hafa þær í gódu hjarta; þegar vér til dæmis, skeikum á skyldanna vegi, og oss rennur í hug ein edr onnur grein eins og þessi: þér erud dýru verdi keyptir, gjørist ecki manna þrælar (Cor. 7, 23) edur: hvør sem vill vidurkénna mig fyrir monnum, hann vil jeg líka vid-

urkénna fyrir mínum födur, sem er á himnum; eda: vertu trúr inntil daudans, so skal eg gefa þér lífsins kórónu (Opinb. 2, 10.) hve stóra hugdjörfúng og krapta veitir oss þetta ecki, á því áridanda augnabliki, til ad berjast karlmannliga? vér þörfnumst uppörvaníngar, til ad efla þolgiædi vort á einum þraungva vegi, sem leidir til lífsins, og í fyrirheitinu ens trúfasta Guds, finnum vér alt, hvad styrkt getur hughreysti hins trúada; á enda skeidflatarins siáum vér þá sigurskórónu, sem Drottinn gefur öllum þeim, sem strída og sigurinn úr bytum bera; þar siáum vér fiölmennann söfnud þeirra trúudu, sem nú, ad aflokinni orrustu, njóta sáluhiálparinnar, hverjir ad áskýa oss, ad feta í sín fótspor, og med þolgiædi áframm holda hlaupinu til takmarksins, sem oss er fyrirsett (Hebr. 12, 11.) Hér hljóma margir andríkir saungar á móti oss, sem vekja heilagar, kiærleiks-, trúnadartrausts-, vonar- og gledi-hræríngar í sérhverju því hiarta, sem spillíngin hefir ei meinfángad. Í sorgum og þjáníngum þörfnumst vér huggunar; en í Bibliunni finnur þú, o, mannesskja, óþverrandi huggunar uppsprettu, hvaraf þú ausid fær rauna línun í þrautum og neyd, á sóttarsænginni, vid jardarför vina þinna og vandamanna, já, líka þar, hvar öll jardnesk huggun er þrotinn, nefniliga í daudans sídustu ádsvifum.

Ausfu þessvegna, kristin manneskja! opt og

óstaldan af þessari lífsins lind; því hvergi fær þú so heilnæma og kryptuga fædu sálu þinni, sem þar; hún er komin frá andanna fødur; og hún hefir sýnt krapt sinn hiá øllum þeim, sem í trú og andakt adhyllast hana; lattu þér ecki þykja þad undrum sæta, ad þetta guddómliga frækorn, verdur hiá so mørgum ávaxtarlaust; þad fellur so brátt á veginn og sølum tredst, í grytta jørd og visnar; ámedal þyrna, og nidurkiæfist; en allt þad sem fell í góda jørd, þad vex og ber margfalldann ávøxt; þessvegna, eins og þad er allt komid undir akursins giædum og undirbúníngi, hvørt frækornid ber gódann ávøxt eda ecki; so er undir þánkafarinu, med hvørju vér lesum þá heilugu ritníngu, blessunin komin, sem þaraf flýtur. En út af øllu því sem híngadtil sagt er um Bibliunnar guddómliga uppruna og háleitu áqvørdun, flióta siálfkrafa eptirfylgiandi reglur, sem vér náqvæmliga verdum ad laga oss eptir, ef lestur bibliunnar á ad bera oss sanna og ævarandi ávexti.

1.) Minnstu þess ætíd, ad Gud siálfur er þad, sem talar vid þig í þeirri heilugu ritníngu. Hlýddu þessvegna á hans rædu med helgri lotníngu og barnligu trúnadartrausti. Sonurinn skal heidra sinn fødur og þénarinn sinn herra; em eg nú fadir, hvar er þá minn heidur? em eg herrann, hvar er þá minn ótti? þanninn áminnir Drottinn oss siálfur í

finnu verdi (Malach. 1, 6), og hver er sá, sem ei finni, hve réttvíst þad sé, ad þegar mannanna fadir talar, egi børn hans ad hlusta á; og þegar sá heilagi talar, egi syndarar ad audmýkja sig.

2). Slíttu þig lausan frá øllum jardneskum sýslunum, sem fyrir þér tafid géta, þegar þú lesa villt þá heilugu ritníngu. Hér er edi talad um forgeingiliga hluti vid oss, heldur um vorrar ódaudligu sálar ædstu naudsynjar; og hverninn gétum vér hlýdt á þessa himnesku raustu oss til blessunar, þá raustu, sem krefst allrar vorrar sálar gaumgiæfnis, þegar vér skiptum þaunkum vorum á milli Guds og heimsins? vér verdum þessvegna til þessarar helgu ydju, ad velja þá tíma, á hverjum vér finnum oss hæfasta til hindrunarlaust ad upplypta vorum þaunkum til Guds.

3.) Undirbúdu þig ætíd, ádur enn þú tekur ad lesa þá heilugu ritníngu, med bæn til Guds, edur rettara sagt: byriadu, áframhald þú, og endadu þessa heilugu ydn; med stødugri bæn til Guds, og hiartans upplýsíngu til hans. Ef vér forsómum þetta, gétum vér hverki rétt skilid Guds ord, né geymt þad í gódu hiarta, eda breytt eptir því — frá Gudi skal allt gott koma — hann er sá sem gaf oss sitt ord; og hann er líka sá, sem í os verkar bædi viljann og giørningiun eptir sinni velþóknan (Phil. 2, 12, 13.) Af eginn

ramleik megnum vér ekkert, af eigin hyggjuviti skiljum vér ekkert. Sá þessvegna, sem les Guðs orð, án þess hann biðji til Guðs, hann safnar auðæfum handa heila sínum, en ekki hiarta. Því hvaðan getur sönn blessan komið, utann frá Guði? og hvornin eigum vér að øðlast hana, án þess að biðja hann þarum? leitir þú þessvegna eptir uppbyggíngu í þeirri heilögu ritníngu, so verður þinn biblíulestur að vera einskonar samræða við Guð. Hann talar við þig í orði sínu, og þú átt að tala við hann með djúpri lotníngu, með því að snúa því sem þú lest, í hiartanliga bæn, fyrirbæn og þakargiörð! þá skaltu komast að raun um uppfyllíngu þess Jesu fyrirheitis: géti þeir jarðnesku feður, sem eru vondir, gésið börnum sínum góðar gásur; hvorsu miklu heldur mun þá sá himneski faðir géfa þeim heilagann anda, sem hann um hann biðja; (Luc. 11, 13.)

4.) Heimfærðu ætíð það sem þú les í biblíunni uppá þig siálfann. Guðs orð er speigill, í hvorjum vér eigum að skoða oss siálfa. Ekki var það géfið oss til þess, að vér skyldum þar eptir dæma annara hiartalag og breytni, heldur vora eginn. Sérhvør stendur og fellur sínum herra (Róm. 14, 4.) Í biblíunni talar Drottinn við þig, o manneskja! þú ert þessi hinn sami maðr, sagði Nathan við Davíð (2 Sam. 12, 17), og af því Davíð varð litið á siálfann sig í þeim spegli, sem spámaðurinn brá

fyrir augu hans; þessvegna snéri hann sér til Guds, og sála hans frelsadist.

5.) Brúkadu bibliunna í því augnamidi, í hvørju hún er géfinn þér. Ecki gaf Gud oss ord sitt til at fá oss nockud til ad grubla útí, ad skruma af, eda kýtast á um, edur til ad lesa oss til dægrastyttíngur, þegar vér nennum ei annad ad gjøra. Nei, sá sem les bibliuna einasta í þeim tilgángi, ad grufla úti hennar undrunarverda innihald eda til ad skémta sér vid, þad sáheyrda í henni, til dæmis: í æfisøgunum Samsonar og Jephta, eda til ad vilja í annari bók, eins og Joh. opinberun, (þvertámót Postulans Peturs advørun (2 Pet. 1, 20,) sem synir oss ad spádomarnir fyrst þá skildir verda, þegar tími þeirra uppfyllíngar kominn er) fyrirsjá ókomna hluti; ad vilja á mannfundum synast ødrum fremri fyrir lærdóms sakir eda til ad géta kíst á moti, og hædt ad náúnga sinum, og gjørdt hann ad trúarvilling; hann spillir ecki einúngis tíd sinni, helldur vanbrúkar himinsins bestu gáfu; hann sígur eytur af því, sem oss er géfid til læknismedals handa sálu vorri. Ritníngin er géfin oss til lærdóms, til sannfæríngar, til betrunar, til leidréttíngar, til uppfrædíngar í réttlætinu; (2 Tim. 3, 16) og til þess á hún ad brúkast.

6.) Endurnýadu ætíd í sálu þinni þann ásetníng, í hvørt sinn þú les bib-

liuna, truliga ad vilja breyta eptir því, sem þér er fyrirskrifad; án þessa námfúsa og hlýdna hiartalags, gagnar þér ad eingu bibliulesturinn; því ecki lesum vér einúngis þessvegna ad læra þaraf, heldur til ad breyta eptir því sem vér lærdum; annars líkjumst vér þeim, sem sína líkamligu ásiónu í spegli skodar, geingur burt, og gleymir strax hvörnin hann var (Jacob. 1, 23, 24); edur vér táldrøgum oss siálfa, med þeirri hræsnisinnbyrlíngu, ad vér giørum Gudi þjenustu med tómum lestri hans ords; ecki helldur lesum vér Bibliuna einúngis til ad vekja gódar hræríngar í brióstí voru — þær verda þá fyrst gagnligar, þegar þeirra verkan rótfestist — en sé því ecki so varid, til hvørs eru þær þá? tilhvørs gagnadi þad ad Gydíngar, srá sér numdir af lotníngu fyrir Jesu, þá hann hellt sína innreid til Jerúsalem, hrópudu: Hósíanna? því skømmu eptir hrópudu þeir: krossfestu! til hvørs gagns var þad, ad Saul hrærdist og fyrirvard sig vegna óréttvísi sinnar mót þeim edallundada Davíd, já, hrærdist til tára? hann hellt eingu ad sídar áfram ad ofsækjá Davíd (Sam. 24, 17. 26., m. m.) En þegar Davíd hrærdist af rædu spámannsins Nathans (2 Sam. 12, 13. Psalm. 51); þegar Petur vid Jesu tillit hrærdist, þad vard bádum til blessunar; því þad var sú hrygd, sem er Gudi þóknanlig, og verkadi apturhvarf til sáluhiálpar (2 Cor. 7, 10). Þess-

vegna gétur þú þeckt þíns bibliulestrar nytsemi, af hans ávextum. Þad sem þú þessvegna finnur í heilagri ritníngu, og med gaumgæfinni og hreinskilinni yfirvegan ecki skilid getur, eda ecki finnst heimfærst géta uppa þig; gakk frámm hiá því, sosem því, sem ecki er skrifad fyrir þig, helldur adra — en þegar þú finnur þig snortinn af Guds ordi, leitadu þér aldrei undanbragda, til ad umflýa sannleikann, hvoriu bitur sem hann annars vera kynni; játadu fyrir Gudi yfirsiónir þínar, med alvarligum ásetníngi, ad siá vid ávirdíngum þeim, sem þú veitst þig sekann í, og ad uppfylla skyldur þær, sem þú finnur þig vanrækt hafa. En tak þér strax fyrir hendur þad, sem þú þér ásett hefir, og um þad áttu ecki ad rádfæra þig vid hold né blód, og ecki vid heiminn. Drottinn er sá sem talar og hans raustu eigum vér ad hlýda.

7.) **Innbyrladu þér ecki, ad þú gétir komid þessu í verk af eiginn rammleik.** Nei, til ad halda Guds bodord, þarfnumst vér adstodar hér ad ofan. Og þessa adstod hefir Gud géfid oss í sínum syni Jesu Christo; án mín, sagdi Jesus, gétid þér eckert giört (Joh. 15, 5.) Guds lögmal er sú skuggsiá, í hvorri vér þeckjum bresti vora (Rom. 5, 20); og þess betur vier skodum oss í henni, þess náqvæmar vér skygnunst inní vort egid hiarta; þess betur vér ranskum, ecki einúngis vora útvortis

breytni heldur líka þá uppsprettu, hvadann hún flýtur; med þess stærra ángri þeckjum vèr ad vèr séum syndarar, og ad vèr höfum stórt á þeirri hrösun sem fyrir Gudi gyldir. Sá sem þessvegna í heilagri ritníngu einúngis leitar eptir sidalögmalsinu, forsmáandi Jesu evangelium, sá er drambsamur Pharisæari, sem ad eins leggur sig eptir bókstafnum, án þess ad skilja hans anda. Vér lærum af Guds ordi ad eckja oss siálfa, og lögmálsins heilögu kröfur, þá finnum vér, hve mjög vér þörfnumst hans, sem kominn er til ad frelsa syndarana; flýdu þessvegna med audmjúku hiarta til hans, eins og þins talsmanns hiá fødurnum; þá örvæntir þú ecki, þegar þú verdur var vid yfirstórir þínar; sættir þig, í trúnni á hann, vid Gud; þá skal þig ecki bresta hugdyrsku til ad feta áfram þann þraunga veg eptir hönum, er leidir til lífsins; því þá mun hans andi, kjærleikans og þacklætisins andi, veita þér dád til ad afneita sialfum þér. Þá muntu eins og Pauli. (2 Cor. 5, 14) finna, ad þú ert þvíngadur af Krists kjærleika til ad lifa ecki lengur siálfum þér, helldur hönum sem fyrir þig hefir dáid og upp aptur risid; þad er sú hlýdni Jesu evangelium krefst, ecki þrælsins, helldur barnsins hlýdni.

8.) Vanbrúkadu aldrei fridarins evangelium, sem heilög ritníng bodar þér, fyrir skálkaskjól, eda letinna

kodda; sá sem það giørir hann þeckir alls ecki Jesu evangelium — hann hefir aldrei sættst við Guð í raun réttri: hvørnin gétur sá sonur, sem með hreinskilni játað hefir føður sínum yfirsjón sina, og ødlast fyrirgéfning fyrir hana, hvørninn gétur hann, segi eg, vísvitandi aptur á sama hátt syndgað; þá væri hann einber svikari og hræsnari? Hafi það verið hans hiartans alvara að sættast við føður sinn, skyldi hann þá ecki með varkárni forðast að styggia hann aptur, að hann ecki á ný giøri sig hans kjærleika óverdigann? skyldi ecki barnlig þacklátsemi móti þeim milda og umburðarlynda føður giøra hønum jafnvel þær þýngstu skyldur auðveldar? þannig sinnaðann við Guð giørir Jesu evangelium þann til náðartekna syndara; þess alvarligar hann kannast við óverðugleik sinn til þeirrar óverdskulduðu náðar og miskunar, sem hønum er veitt fyrir Jesum Christum; þess ómøguligar gétur hann seingið af sér, að selja sig aptur í syndarinnar þrældóm, frá hvørjum hann fríaðist fyrir Jesum Christum; kjærleikinn til Guðs, sem tók hann til náðar; hans elskuliga þacklátsemi við Jesum, sem fornfærði sér fyrir hann, aðvarar hann í sérhvørri freistingu, styrkir hann í serhvørri baráttu og giørir hønum jafnvel hið þýngsta ok léttbært. Það auðmjúka barnliga sinnislag, sem trúin á Jesu Evangelio af sér fædir, er uppspretta alls hins góða sem hjá hinum Christnu finst. Það kénnir høn-

um ad álíta lífsins armædur sem føðurliga hyrtan, hvørrar hann vid þurfti; og lífsins gledi sem óverdskuldaða gáfu, er sá algódi veitti hønum til uppørfunar; þessvegna er hann í medlætinu hógvær, tékur hlut í annara naudum til ad afléita þeim, en í mótgénginum er hann velánægdur med Guds føðurligu áqvardanir; fyrir trúna á Jesum er hann í sameiníngu vid Gud, og væntir sér alls góds af hønum; hann er Guds erfingi, og samerfingi Jesu Christi; á þennann hátt leidir Guds ord Jesu evangelium oss fyrir sjónir (Róm. 6, 8. 12 cap. Gal. 5, 13. Tit. 2, 11); og sá, sem þannin skodar það, hann sannar Pauls ord: ad það sé Guds kraptur til sáluhiálpar, øllum þeim sem trúa (Róm. 1, 16.)

9.) **Endadu aldrei bibliulestur þinn, án þess þú med hiartanligri bæn til Guds, hafir innprentad djúpt í hiarta þitt, það sem þú lærdir, les þar fyrir ei mikid í einu, heldur lítid í senn en les það af øllu hiarta.** Legdu merki til þeirra orda sem einkum hrærdu þig í því þú varst ad lesa, geymdu þau í gódu og sídsømu hiarta; láttu þau fylgia þér þegar þú ferd frá lestrinum til annara sýslana eins og trúfastan vin, heimugligan advarara og huggara; og þegar þú átt ad fara ad berjast mót heimsins freistíngum; so fyrir alla munni fram, haldtu fast vid það, sem þú hefir, so einginn ræni þinni kórónu (Opinb. 3,

11), takin vara á hiarta þínu, að það guðdómliga frækorn, sem er sáð í það, hverki skrælni af brennandi sólar bita, það er undir hinna vinnandi freistínga bruna, edur niðurkjæfist af þyrnum og þistlum, það er: af búksorg og girndum heimsins; því sé þetta andliga útsæði velræktað og hyrdt með árvekni og bæn, mun það vaxa og þróast, og bera margfaldann og dýrdligann ávöxt. Ecki muntu giöra þig til af því, sem þú lært hefir, edur þér til hróss setja það fram til sýnis fyrir heimsins augu; enn af þínu kyrláta, guðliga framferði skal það siást hvörs lærisveinn þú ert — ecki muntu þá skammast þín fyrir Jesu evangelium, hélldur viðurkénnir hann fyrir heiminum, so að hann aptur vilje þeckja þig og játa þig að vera sinn fyrir sinum himneska faður (Matth. 10, 32, 33.) Þá munt láta þitt ljós skína fyrir þínum meðmanneskjum, so að þær siái þín góðverk, og heidri faður þinn, sem er á himnum (Matth. 5, 16).

Hvør sem þannin með auðmjuku, trúuðu og hlýðnu hiarta les heilaga ritníngu, hann mun sannliga skilja allt, hvað hønum er áríðandi. Eða skilur sonurinn ecki orð faður síns, þegar hann girnist að hlýða hans áminníngum og aðvørunum? skilur þénarinn ecki boð herra síns, þegar hønum er það umvarðandi, at vita hans vilja og giøra hann? næsta vel skilur sá syrgiandi huggunar-ástæður eins trúfasts vinar;

vegna þess hann leitar sínu særda hiarta lækníngar; það er þessvegna naudþurft hiarta vors sem upphvetja skal oss að leita liósins og lífsins uppsprettu, og kénna, ad uppausa af henni allt hvað vor sála hefir þörf á; já, hun er það, sem opna skal oss helgidóminn og kénna oss að dvelja þarinni med gledi og gedþóknan; hvörn sem húngrar og þyrstir eptir réttlætinu, hann leiti í Bibliunni eptir því sem sadt gétur sálu hans; og sá sem leitar, hann skal finna. Þegar einn audmiúkur Christinn t. d. les Páls harmaklögun yfir holdsins edur skilníngarvitanna miklu makt yfir sér (Róm. 7), muu hann þá ecki skilja meiníngu orda hans; jú, hann finnur líka sem óm af þessum sannleika innvortis í sálu sinni, því opt og óftaldann hefir hann yfir því sama klagað, hvad hann sjálfann snertir. Sendibréfin til Rómveria og Galata innihalda að sönnu einstaka myrk og þúngskilinn ordatiltæki; en skyldi sá kristinn madur, sem les þau med betrudu og hreinskilnu hugarfari, ecki var verda vid þá huggun og krapt af Jesu evangelio, sem hönum verda þar skakliga fyrir siónir sett? hve audskilin er ecki Jesu fiallpredikun sérhvörjum þeim, sem halda vill hans bodord; ef að sá trúadi kristinn hefir syrgt eda syrgir vid legstad sinna ástkjæru; skyldi hann þurfa adra leidsögu, enn naudþurft sins eginn hiarta til að skilja Jesu burtfararræðu vrir lærisvenum sínum (Joh. 13—16 cap.) hvörsu

skiljanligur og hiartahrærandi er ecki trúúdum krossberara, sá sorgar- og huggunar-són, sem heyrist í morgum Davids Psálma! vér verdum þessvegna ad lesá heilaga ritníngu med sama hugarfari, sem þeir hofdu, er hana skrifudu; vér verdum ad finna til þess sama, sem rithofundarnir fundid hafa, somu sorgar, somu vonar, somu gledi; þá skiljum vér þá. Sá sannleikans andi, sem taladi í þeim, hann leidir oss þá í allann sannleika — Gud siálfur verdur þá vor Lærimeistari; þá lýsir kristur fyrir vorum augum "minir saudir", segir hann, "heyra mína raust„ þad er: þeir skilja mín ord og hlýda þeim (Joh. 10, 27) eg þecki mína, og eg þeckist af mínum (Joh. 10, 14) en þeir, sem ecki eru hans, skilja hann ecki heldur. Því skiljed þér ecki mitt mál? spurdi hann Pharisæana (Joh. 8, 43), af því, sagdi hann siálfur, þér getid ecki lidid min ord; þannin er því varid enn nú. Þann drambsama, hjegómagiarna og veraldliga-sinnada mann velgir vid bibliunnar einfoldu og alvarligu ordum, ellegar styggist af þeim, þau eru honum, eins og Páll ad ordi qvedur, heimska, og han sær þau ecki þecki, því þau hlióta andliga ad dæmast (1 Cor. 2, 14).

Enn finnast þá ecki margir þúngskildir stadir í biblíunni? óneitanligt er þad; en þad er ecki í hennar verulíga innihaldi, ei í því sem snertir vor sáluhiálpar-efni, ecki í því, sem vér allir vita

þurfum til ad finna veginn til lífsins; hér í er ekkert sem útlagst gétur á tvo vegu, ekkert á óvíssum rökum bygt, ekkert myrkt edur bliðst, helldr allt hiartnæmt, einlægt og tilgierdarlaust; dæmdu sjálfur, medkristni bródir og systir! þú sem elskar Gud og hans ord; er það ósliljanligt sem heilög ritníng talar vid þig um Gud, um hann kjærleika, þacklæti, hlýdni og trúnadartraust, sem þú ert hönum umskyldugur? talar hún tvirædt um Jesúm Christum, hvör hann var, og hvad hann er þér; hvörsvegna hann kom í heiminn; hvad hann hefir afrekad þér og lidid fyrir þig; talar hún í myrkvum og óljósum ordum, um trúna, vonina og kiærleikann? nei! í þessu adalefni eru bibliunnar ordatiltæki sannleikans einlægu ord, ljós, skilmerkilig, kröptug og hjartnæm, eins og sólinn, sem í einu bædi upplýsir og vermir. Og þó margir þykist líka í þessu höfudefni bibliunnar, finna eintómt myrkur, fávitsku, og fráleitar meiníngar, þá er það vissuliga ecki bibliunnar helldur lesendanna skuld. Þeir skilja ecki bibliuna, af því þeir vilja ecki skilja hana, heir apturloka augunum fyrir ljósi sannleikans, sem þeir ecki geta þolad. Láttu þig því ecki, kristni medbródir! hræda frá bibliulestri þínum, af því, ad þú heyrir suma tala so illa um hana; fylgdu ad eins þeim hér ad framan áminnstu reglum, og þú munt þá finna í henni og skilia allt hvad skrifad er þér til nota; því það

er so í blutarins náttúru, ad þegar Guds ord er um hond haft, med gudligu sinnislagi, hlýtur þad ad verda oss skiljanligt, og þess optar vér ítrekum þad, þess ljósara. Ef vér lesum þá heilogu ritníngu, med því sinnislagi, sem laust sé vid heiminn, en horfandi til Guds, eins og hér ad framann er umgétid; hlýtur þad þá ecki af siálfu sér, ad alt í henni verdi oss skiljanligra? Þad er ecki andi veraldar þessarar, sem í henni talar, helldur Guds andi (1 Cor. 2, 12). Þad er aldeilis onnur raust, sem vér heyrum í þessum helgidómi, enn sú sem vér jafnadarliga heyrum úti fyrir; þad er aldeilis annad samkvæmi vér erum þá í, enn heimsins almenniliga samkvæmi og hid gamla ordtæki, sem opt er vanbrúkad, »ad madur verdur ad líkjast samkvæminu,» gétur í edlari meiníngu híngad heimfærst. Uppháfnir yfir þad jardneska og forgeingiliga, yfir sérhvorn vanheidrandi tilgáng, ritudu þeir heilogu skrifarar, þad sem Gud blés þeim í brióst. Þess meir vér líkjumst þeim í þeinkíngarmáta, þess betur skiljum vér ord þeirra; þad er um háleita, andliga og himneska hluti, sem þeir tala vid oss — og þess meir vor hugur og hjarta snýst ad því, þess betur hlióium ver ad skilja þeirra rædur; þá skiljum vér t. d. þau ord er Páll sagdi, sem so margir steyta sig á (1 Cor. 1, 18 og 3, 18), ad heimsins vísdómur sé dáraskapur fyrir Gudi; og ad med hlióti ad verda dári, so madur vitur

verdi og fl. Ef vér lesum heilaga ritníngu með hiartanligri bæn til Guðs, hlýtur margt að verða oss liósara, sem annars væri oss myrkt. Frá liósanna Føður á liósið að koma, og aldrei bidjum vér hann forgéfins, um það; hann er nálægur þeim sem hann ákalla, ákalla hann i anda og sannleika (Ps. 145, 18). Bæn ens réttláta megnar mikils, þegar hún er alvarlig (Jac. 5, 16) hún upphvetur oss til að leita, af øllri alvøru, eptir veginum til lífsins; af henni styrkist vor andi, og skérpist sión vorrar sálar. Hiarta vort opnar sannleikanum inngaungu, og sannleikurinn frelsar oss. *)

Ef vér lesum heilaga ritníngu í þeim tilgángi að breyta eptir því sem vér lærum; og ef vér leggium hønd á verk í að framqvæma vorn tilgáng og høldum því so áfram, þá upprennur

---

*) Rithøfundsins tilgángur hefir hér ekki verið að sýna bænarinnar nytsemi yfirhøfuð; helldur að so miklu leyti, sem hans efni vidkom; því annars, mundi hann hafa lýst henni með liósari einkénnum. Sé bæninn eptir Guðs vilja andøgtug, stýnísm, trúnaðartrausts-full, so qveikir, hnærir og styrkir hún hjá oss gudrækna hugarhræríngar og góðan-ásetníng, hún upphvetur oss til að færa oss Guðs velgiørnínga einkum þá andligu rétti, liga í nyt, ørfar tilfinníngu vors egin breisk-leika, og þess, hve mikiø vér þørfnumst Guðs náðar í Christo. Utlegg.

oss þad sanna liós í sálunni og þad æ skiærra og skiærra. Hvad er oll þekkíng án eigin reynslu? reynslan er, og þad í vorum timanligu efnum, vor besti skólameistari. Bóndinn má hafa lesid so mørg rit um jardarrækt, sem hann vill, ef hann aldrei giørir tilraun med þad á egin jørd sinni; þá verdur øll hans þekkíng, ecki einúngis ógagnlig, heldur ógrundud og óskilmerkilig. Þannin er því og varid í því andliga. Hve mikg lesknir sem vér erum í bibliunni, ef vér ecki færum oss í nyt þad guddómliga sædi, sem í henni er, til ad sá því í akur vors hiarta, svo hann blómgist og beri ávøxt, þá verdum vér ætíd dramblsamir dárar, sem eckert vitum; »altaf lærum vér, en sannleikans vidurkenníng færum vér ætíd á mis vid" (2 Tim. 3, 7). Nei, med því ad verda ordsins giørarar, en ecki einúngis þess heyrendur, edur lesarar (Joh 7, 17), lærum vér fyrst rietiliga ad skilja þad; Jesus siálfur fullvissir oss um þad, ad vér med því ad giøra Guds vilja, þeckja skulum, nefnil. af egin reynslu komast ad raun um, hvørt lærdómurinn sé af Gudi, eda hann tali af siálfum sér. Guds ord er ecki innifalid í þeim dauda bókstaf, helldur í anda, lífi og krapti; og einúngis sá sem reynir þess krapt á sálu sinni, hann skilur þad; hver er sá sem eginliga skilid fetur, hvad þad þýdi: ad ydrast synda sinna, snú umvendast til Guds, ad afneita siálfum sér, ad trúa á Jesum Christum og ad elska sinn náúnga?

eitt úngis sá sem adbesst þad, sem þessi ord út-lista; fyrir þessa lifandi þeckíngu fáum vér elsku til bibliunnar. Frá hennar lestri munum vér þá ei láta dárans gis og hædni hallda oss. Þá gétum vér sagt med Páli; eg veit á hvörn eg trúi (1 Tim. 1, 12).

Ef vér á þennan hátt færum oss jafnadarliga heilaga ritníngu í nyt so lærum vér ad skilja hana betur og betur. En þessa þeckíngu, sem so er á reynslu bygd, odlumst vér eckí allt í einu, helldur smámsaman; fyrst sýnir sólinn sig í morg-unrodanum og hækkar smámsaman uns middegis liominn kémur; í Christo eru børn, únglíngar, fullordnir og oldúngar (Joh 2, 12, 13), og þad ecki einúngis ad aldrinum til, helldur eptir fram-förum þeirra. Ef vér trúliga breytum eptir því sem vér lærum, so fromumst vér meir og meir. Syndir vorar og dáraskapur eru eginnliga sú þoka, sem formyrkvar fyrir oss þá himnesku sól; en ef vér jafnadarliga færum oss Guds ord í nyt, so sundrast þoka þessi meir og meir; fleiri og fleiri liósségeislar skína þá inní sálu vora; vér uppgøt-vum eina yfirsión hiá oss eptir adra; og þannin kom-umst vér leingra og leingra. án þess vér nockurn-tíma meigum giøra oss íhugarlund, ad vér ad fullu þekt høfum vora hiartans spillíngu, eda til fulls tæmt þá eylífu vísdóms uppsprettu, sem falin er í heilagri ritníngu. Nei, biblian er sú gullæd, í hvörri vér finnum þess meiri og dýrmætari fiár-

stódu, þess dýpra vér grøfum. En med hreinu hiarta verdum vér ad gánga inn í þennan Guds helgidóm, ef vér girnumst ad siá Guds dýrd, sem þar sýnir sig; og med dagligri siálfsprófun og siálfsafneitan helgumst vér meir og meir þartil. Vér hlióturn ad hreinsa oss siálfa meir og meir frá øllum holdsins og andans saurugleika og fullkomna vora helgun í Guds ótta (2 Cor. 7, 1) ef vér egum ad géta sied Drottinn. Á vegi þessarar siálfsafneitunar hafa allir þeir áframhaldid, sem lærdu ad skilja Guds ord til hlýtar, já fyrir sjálfum Jesú Postulum, hvøria Guds andi á yfirnáttúrligan hátt leiddi í allann sannleika, géck þad soleidis til. Á þeirra undirbúnings døgum voru þeir børn; þeirra fødurligi frædari, vard á medan einasta ad géfa þeim miólk, en ecki megna fædu. Hann hafdi margt at segia þeim, sem þeir ennþá gátu ecki borid (Joh. 16, 12). Hefdu þeir nú fallid frá hønum, þegar hyrdirinn var sleginn, og saudir hiardarinnar sundurtvistrudust; so hefdu þeir litlu liósgeislar, sem tóku ad skína í sálu þeirra, snart aptur burtu hvørfid, en af því þeir áframhéldu ad vera greinir á vínvidnum, á hvørt þeir innplantadir vóru, þessvegna báru þeir dýrdliga ávexti. Allteins hliótum vér ad halda oss stødugliga vid vísdómsins uppsprettu, ef augu vor ega ad géta opnast, oss ver ecki fáum þau dýrdligu audæfi, sem í henni geymd eru.

Til ad géta þetta ödlast, leidir Gud oss sjálfur med sínum födurligu áminníngum, einúngis ef vér gaumgiæsa viljum hans bendíngars hann uppáleggur oss kross og þjáníngar til þess ad vér finna skulum, hve mjög vér þörfnumst hans ords, og leitum í því hvíldar sálum vorum. Hann setur oss í freistínganna skóla, so vér ei byggia skulum trú vora á egin kraftum, og mannligs vísdóms qvikula sandi, heldur á hellunni, hvar stormurinn gétur ei raskad; jafnadarliga minnir hann oss á daudligleika vors jardneska líkama; ad vér skulum þess fastara halda oss til hans og á hánga hönum, sem hefir þad eylifa lífsins ord. Hann særir vort hiarta, med vina og vandamanna missir, so vér leita skulum lækníngar í huggunar og vonarinnar uppsprettu; sá sem gaumgiæfir þvílíkar Drottins áminníngar og hvörs hiartans naudþurft knýr hann til ad rækia Guds ord, hann lærir ad virda heilaga ritníngu ödruvísi enn ádur, hann finnur þad í henni, sem hann aldrei fyrr fundid hefir; margt þad ordatiltæki, sem hönum ádur virdtist fyrir óljóst, verdur hönum nú ljósara; hvad hönum ádur sýndist meiníngarlaust, verdur hönum nú kiarn- og kraftfullt; hvad hönum ádur lá í léttu rúmi, verdur hönum nú umvardandi. Því án húngurs og þorsta fáum vér leida á þeim heilnæmustu réttum — og þad er einúngis sálarinnar þörf, er vér sjálfir tilfinnum, sem gefid gétur oss lyst til þeirrar and-

ansfædu, sem biblían bídur oss. Já, satt er þad sem Jesús segir (Joh. 6, 44): einginn kémur til mín utann, minn fadir dragi hann; en hann dregur, áminnir og advarar alla. En því er midur ad so fáir heyra hans köllun; sarsælir erum vér, ef vér hlýdum henni! þá munum vér sjá til heilagrar ritníngar, eins og sá rádvillti til rádgjafarans, og sá syrgiandi til huggarans. Og nær vér þá reynum hvad rád hans holl eru og hugganir hans endurnærandi, þá leitum vér þángad optar og optar í sérhvörri ánaud, sem ad höndum ber — vér verdum þessum vorum vini æ kunnigri og kunnigri, og sannfærumst ætíd meir og meir um hans trúfesti. Eins verdur oss þá biblían æ kiærari og ómissanligri og þótt rædur hennar stundum sýnist holdi og blódi strángar og heimsins börn skeyti ecki um ad heyra þær, þá látum vér þad eckert hindra oss frá ad aðhyllast þennan vorn, í naudunum velreynda, vin, helldur tökum undir med Postulanum Petri (Joh. 6, 68): til hvörs skulum vér fara nema til þín? Þú hefir þad eylífa lífsins ord!

Þetta er sá vegur sem Drottinn siálfur hefir vísad oss, so ad vér feingjum skilid hans ord. Sá sem ecki geingur hann, lærir helldur aldrei ad skilja þad til gagns. En þótt nú hugarfarid, med hvöriu heilög ritníng lesin er, sé mest áríðandi, géta þó eptirfylgiandi rád og bendíngar, ad von minni, gagnad hreinskilnum kristnum manni,

sumpart til að kenna honum rétta brúkun Guðs orðs, sumpart til að vara hann við þess misbrúkun:

1) Innprentaðu djúpt í hjarta þitt ritníngarinnar höfuðlærdóma, og aðalboðorð, til að samanbera hennar annað innihald þarvið. Þvílík orð, sem þessi: Guð er andi, því ega þeir sem tilbiðja hann, að gjöra það með réttum anda, (hreinskilnu hjarta) (Joh. 4, 24). Þú átt að elska Drottinn Guð þinn, af öllu hjarta, allri þinni sálu og öllu þínu hugskoti, og náúnga þeim eins og sjálfann þig (Matth. 22, 37. 38). Hver sem nefnir nafnið Christi (o: játar sig kristinn að vera), sá láti af öllu ránglæti (2 Tim. 2, 19). Sýn mier trú þína af verkum þínum (Jac. 2, 18). Þessi og þvílík ritníngarinnar orð, segi eg, ega að vera oss leiðarstjörnur, til að upplýsa það, sem oss sýnist myrkt. Finnur þú þá eitthvað í bibliunni, sem þér sýnist stríða á móti þessum sannindum, er so opt, so ljóslega, og með so fastri vissu, kénd eru, so vertu viss um, að þú ecki hefir skilið meiníngnna; því Guð getur ecki mótsagt sjálfum sér.

2) Gleymdu því ecki, þegar þú les það G. T., að það einkum og allrahellst er skrifað handa Gyðíngafólki, og að í því einúngis er morgunskíman, sem fyrirboða átti og undirbúa dagsins

komu. Ecki meigum vèr þessvegna lítils meta þau ord, sem Gud taladi til forfedranna fyrir munn og hönd Spámannanna, þótt hann hafi látid soninn ljósar og kreptugar á seinni tídum tala til vor. Nei! í því Gamla Testamenti finnst fyrirheitid um Krist, og í því Nýa nppfylling þeis, og hvorninn ættum vèr ad géta skilid Jesúm og Postulana, án þess ad vera kunnigir Mósí og Spámönnunum; og hve stór audæfi innihelldur ecki ed Gamla Testament af lærdómsríkum eptirdæmum, hrærandi saungvum og vísdómsfullum lífsreglum. Enn ecki megum vèr hneyxlast á því, þó ecki sieu þar so ljósar bendíngar inní eylífdina, so hreinar ámindanur um Gud allra manna Födur, ecki so hreinn og háleitur kjærleikans lærdómur, sem í því Nýa Testamenti. Þad væri eins og ad hneixlast á því, ad morgunrodinn er ecki eins skjær og sólskinnid um há middegi. Vèr hljótum því ad samanbera innihald þess Gamla Testamentis vid Jesú og Postulanna fullkomna lærdóm, sem í eginnlegri þýdíngu er oss christnum sá mælikvardur, eptir hvörium vèr trúa og lifa eigum. Ef vèr breytum þannin, þá mun lestur ens G. T. verda oss harla nytsamligur (2 Tim. 3, 15).

3) Slíttu aldrei bibliugreinirnar útaf samanheingi því, í hvörju þær eru sín á milli; helldur gaumgiæfdu náqvæmliga í hvílíku tilfelli, og í hvada tilgángi hvörrein grein

og hvar ræda Kristud er. Þegar, til dæmis: Páll segir (Róm. 3, 28): vér réttlætumst fyrir trúna án lögmálsins verka; þá setur hann sig móti þeim sjálfsþótta, sem finnst, ad hann einga þörf hafi á Jesú Evangelió. Þegar Jacob segir (Jac. 2, 24): vér réttlætumst ecki fyrir trúna alleina helldur fyrir verkinn; þá setur hann sig mót því hræsnis yfirskyni, sem kallar einbera, útvortis játníngu Kristinndómsins, trú á Jesúm. Þeir taka ordid trú, í mismunandi merkíngu, og mótsegia því ecki hvor ödrum.

4) Berdú þá ólíósari stadi í ritníngunni saman vid adra, sem innihalda þad sama efni, og til hvörra vísad er í bibliunni siálfri; og þá munt þú finna þá upplýsíngu, þú leitar eptir; óttist nockur eins og Jesú lærisveinar þessi Jesú ord: hægra er úlfaldanum ad gánga í giegnum nálaraugad, enn ríkum manni inn í himnaríki (Matth. 19, 24); þá samanberi hann þad vid hitt, sem stendur skrifad hiá Marcus (10, 24), hvar med þessu ordi: "þeir ríku" er greiniligar synt, ad meintir séu þeir, sem reida sig uppá audæfinn *). So verdur meiníngin ljós og skilmerkilig — þad er

*) Þad gétur ómögulíga verid Jesú meiníng: ad einginn ríkur géti ordid Jesú lærisveinn eda komist í himnaríki. Jósepb af Arimathæa var ríkur, og þó einn á medal Jesú fyrstu játenda; enn þessara Jesú orda mein-

næsta ørbugt, og án Guðs aðstoðar ómøguligt, að þeir sem giöra þessa heims audæfi að afguði, géti slitið sig lausa úr Mammóns þiónustu.

5) Lestu aldrei óskipuligá biblíunnar bækur, heldur veldú í hvört sinn þvílíkar bækur og greinir, hvorra þú þá finnur þig, með tilliti til þins þánkafars, mest þarfnast. En hvörninn gétur lesarinn fundið þessar, án þess að vera kunnugur bibliunnar innihaldi? Það er ómøguligt. Þessvegna verður hann líka, so mikið sem møguligt er, smámsamann að giegnumlesa heilu bibliuna, fyrst þær léttari bækur, og síðann þær þúngskildari, þær historisku og síðann þær aðrar. Á þann hátt sær hann ecki einasta lítið yfir það heila í einu og lærir að bera lotníngu fyrir heilagri ritníngu, sosem dásemdarfullri, samanhángandi byggíngu og sem óviðjafnanligu verki Guðs vísdóms og giæðsku; en þegar hann festir athuga á þeim bókum og støðum, sem mest uppbyggðu hann, so á hann hægast með að finna það aftur, sem hann á hvörium tíma viðþarf sér til leiðréttíngar, uppørfunar og huggunar. En sá sem hefir litinn tíma og gáfur, hann lesi helldur í því Gamla Testamenti, þær léttustu og kiarnfyllstu bækur,

sna liggur í augum uppi, þegar þau eru samanborinn við það, sem Postulinn Páll segir Timot. 6, 17—19.

**Utleggiarinn.**

t. d. 1, 2 og 5 Mósis bók — Samúels- og Kóngaannabækur — Rúths bók — Davíds Psálma, Salómons orðsqvidu. En um allt fram lesi hann, og lesi opt, hið Nýa Testament, sem þá bók, hvøreð er einum christnum mest umvarðandi, og mun hann skilja í því so mikið, sem hann eptir sínum tilgángi þarf að skilja, og það jafnvel í þeim tveimur þúngskildustu pørtum þess, nl. sendibréfinu til Hebræos og Jóhannis opinberunum. Þegar hann les með gudelskandi hiarta, so lærir hann þaraf margt og mikið uppbyggiligt.

6) Gleymdú aldrei, þegar þú les heilaga ritnínga, að hún er safn bóka þeirra, sem ritaðar eru á misg fiárlægum tíðum og støðum, og undir sørum kríngumstæðum, enn vér nú lesum í. Ecki þá mun oss finnast það undrum sæta, þó margt finnist í henni, sem í tilliti til útførsla og løgunar, ecki gétur sambodið vorum tíðum og løndum, vorum siðum og venju. En það er einúngis það sem útvortis er, sem umbreytíngu er undirkastað — andinn, sannleikurinn siálfur, er ætíð sá sami. Fótaþvotturinn t. d. sem Jesús brúkaði við lærisveina sína, var vanaligur á Austurløndum (Joh. 13, 1 fylg). Þetta var útvortis, bókstafurinn, sem er umbreytíngum undirkastaður — en sá auðmyktar lærdómur, sem Jesús kéndi þarmeð, sá nefniliga: að vér skulum ecki álíta oss afgóða, til að vera þjenustúre.du-

búnir, vid sérhverm smælíngia, ámedal med-manneskja vorra — þad er andinn, sem aldrei umbreytist — sú stálsásneitan, Jesú krafdist af hinum ríka yngismanni (Matth. 19, 21), sú nefniliga: ef þú villt algiördur vera, far þú burt, og sel allt hvad þú hefir og gef fátækum; var naudsynlig á offóknartídunum fyrir alla þá, sem vildu vera Kristindómsins kénnarar. En verdur þad þó ecki ætíd heilög skylda fyrir alla Kristna, ad leita meir Guds ríkis, enn jardnesk’ra audæfa? Aldvörun sú, sem Páll gaf Corinthumönnum (1 Cor. 8, 1 sylg.): ad, þó þeir viti, ad einn hiá-gud væri eckert, mætti þeir þó ecki ega þátt í heidíngianna offurmáltídum, so þeir ecki hneixludu sinn breiskari bródur — gétur ecki ad vísu, eins og hún er eptir ordunum, heimfærst uppá oss, sem ecki umgaungumst heidíngiana; en þörfnumst vér þó ecki harla mióg þeirrar advörunar, sem í hans ordum er innifalin, ad vér ecki megum vanbrúka vort kristiliga friálsræði ödrum til hneixlis eda ásteytíngar, en lángt heldur neita oss um saklausa skjemtun, enn ad hneixla einn af brædrum vorum. ”Ad allir þeir sem gudliga vilja lifa í Christo Jesú, hlióti offóknir ad líða”, eins og Páll segir (2 Tim. 3, 12. samanberid vid Matth. 10, 22. Post. G. 14, 22); á, án efa, allra best heima við tídir offóknanna, sem mestar vóru í uppbyrjun Christi kyrkju, þá bædi Gydíngar og Heidíngjar képptust hvör vid annann um ad nid,

urkefsja trúarbrøgd þessi strax í fædíngunni; því á medann eingin manneskjulig makt lènti þeim hiálpar vopn, þá vóru þau og þeirra játendur undirorpnir øllum þeim umsátrum, svikrádum og ofríki, sem mannligt hugvit uppþeinkt gat; en þó gétur samt einginn neitad því, ad ord þessi géta heimfærst til allra tída: er ecki ætíd stríd á millum liósins og myrkursins, millum Christs og Belials? og þótt þetta nú ecki so væri, sem þó er, so þarf sérhvør sá, sem vill heyra Christo til, ed krossfesta sitt hold, med þess girndum og tilhneigíngum (Gal. 5, 24). Pad sem hér er sagt, gétur ogso heimfærst uppá þau eptirdæmi, sem biblían oss fyrir siónir setur: þegar Jóhannes skírari, til ad uppfylla sínar skakligu skyldur, synjadi sér allrar þeirrar ánægiu, sem flýtur af samqvæmi annarra manna, og lifdi so kraungu lífi, so gétur hans dæmi kjennt oss hreinskilna siálfsafneitun, og ad vera ánægdum í bágustu kríngumstædum; en þad er ecki meiníngin, ad vér, án Guds sérdeilisligu køllunar, neitum oss um alla samqvæmisliga gledi, eda pínum siálfa oss, því sídur sem Jesús siálfur ecki fordadist annara samqvæmi. Þegar Postularnir geingu frá bæ til bæar, til ad útbreida Jesú Evangelíum, þad var samqvæmt þeirra sérdeilisligu køllun; þad væri því fráleitt af vorrar tídar mønnum, ad taka sér þad á hendur í þeim løndum, hvar kristiligir kénnarar eru innsettir. En

Postullanna siálfsafneitan, þeirra stødugl ndi, þeirra trúskapur, í þeim stærri, ætti ad lifa í oss, uppþvetja oss, í vorum minni fyrirtækium; því gáfur og embætti eru margvíslig, en andinn er sá sami (1 Cor. 12, 4 fylg.)

7) Varadú þig vid ad skreýta yfirsiónir þínar, med dæmum þeirra æruverdu manna, sem heilög ritníng frá segir. Abraham er nefndur fadir þeirra trúudu (Rom. 4, 11. Guds vinr Jac. 2, 25), og hann verdskuldar þetta heidursnafn. En var þad þó ecki yfirsión hans, þegar hann vegna ótta sagdi ósanníndi? (1 Mósi bók 12, 11 fylg). Jacob var gudhræddur madur, en eru ecki brøgd þau, sem hann hafdi í frammi, eins straffverdug fyrir þad? (1 Mósi bók 25. 30 fylg. 27 1 fylg. 30, 37 fylg.); biblian setur oss þetta fyrir siónir ogso um þá trúudu, ad þeim hafi yfirséft, til ad minna oss á, ad sú andliga árvekni, sé oss øllum harla naudsynlig (þar vér allir erum breiskar manneskiur, ecki sídur enn þeir, um hvørja vér lesum þetta i bibliunni). Er ecki Davíds þúnga hrøsun oss eins lærdómsrík til advørunar, eins og hans ypparliga dygdadæmi til uppørfunar?

8) Vanbrúkadú aldrei bibliunnar frásagnir um kraptaverk og engla-opinnberun, fyrirburdi og drauma, so ad þú væntir ennþá slíkra kraptaverka, slíkra yfirnáttúrligra opinnberana af Gudi. Þad er hiátrú,

sem upprunnin er af vantrú. Sé so, að vér í sannleika trúum, að Guð hafi opinberað oss allt hvað vér þurfum að vita, fyrir sinn eingetinn son (Colos. 2, 3. Post. G. 20, 27); hverninn getum vér þá vænt nærrar opinberunar? (Gal. 1, 6 fylg.), og ef vér trúum því, sem Jesús sjálfur segir (Matth. 11, 2 fylg.): að hann giördi kraptaverk á þeim blindu, höltu sjúku, daudu, einúngis til að staðfesta það, að hann væri sendur af Gudi; hverninn getum vér þá krafist eda vænst af Gudi, að hann giöri kraptaverk á vorum tímanligu efnum? einganveginn; það kallar Jesús sjálfur: að freista Drottins Guðs síns (Matth 4, 7).

En að þessi hér að framan gefnu ráð og advaranir, geta einúngis ordið þeim að notum, sem með því að undannfarnu útmálada gudliga hugarfari, lesa heilaga ritníngu. Skorti þeisa hugarfar, getur einginn leidarvísir til bibliulesturs úrbætt. Manneskjur geta ekki gefið oss það auðmiúka, trúaða, barnliga þánkafar, með hverju Guðs orð á um hönd að hafast. Nei! það er vísdómurin hér ofann að, um hvern vér með trúnadartraustsfullum hiertum verdum að bidja Gud, sem þá giarnann gefir oss hann (Jac. 1, 5 fylg), og synjar hans eingum.

Gaktú þennan veg, krist-n manneskja! og gaktú hann staðfastliga; þá verdur biblian þér harla kiærkomin. Þú mátt ekki búast við að þú fullmetið fáir bibliunnar dýrmætu efni í fyrsta sinni, sem þú lés hana; aldrei giördist neinn vinur vor, einúngis af því vér heilsudum honum, eda neusinni gistum hia honum. Nei! við jafnadar-

liga umgeingni med hønum, uppgötvudum vér meir og meira gott hiá hønum, einkum í mótgánginum, sem er vissasti prófsteinn hiartaþelsins, í mótgánginum lærdum vér ad virda hans trúfasta hiarta, og soleidis bundnum vér æ fastari og fastari vináttu vid hann: þannin hefir þad ogso geingid til fyrir øllum þeim sem lært hafa ad elska Guds ord. Þeir lásu þad ecki einúngis, helldur ransøkudu þad, eins og þeir í Berhoea fordum giørdu (Post. G. 17, 10. 11) og med því móti fundu þeir í því framar og framar, þá fiársiódu hins eylífa vísdóms, sem í ritníngunni folgnir ern. Þessi vinur vard so hiørtum þeirra æ dyrmætari og kiærari; hann var þeirra huggari í hørmunum, þeirra fullíngi í hættuunum, þeirra hæli í naudunnum; iá, hann yfirgaf þá jafnvel ecki í daudanum; þegar øll mannlig hiálp er horfin. Hafir þú máské siálfur ennþá ecki komist ad fullri raun um bibliunnar dyrmæti, þá settu í huga þér þvílíkra kristinna dæmi móti heimsins dómum. Séu vitni þessi færri, so er þó vitnisburdur þeirra lángt merkiligri; því þeir vitnudu hvad þeir vissu; vertu því hughraustur, og setadu í þeirra fótspor; þá mun vísst fara fyrir þér, eins og innbyggiurum í Sicharsborg fordum, sem fyrir konunnar áeggjun komu til Jesum (Joh. 4, 28. 29. 42). So munt þú loksins, þegar þú ert ordinn kunnugur bibliunnar anda, géta sagt: eg trúi nú ecki leingur fyrir annara vitnisburd; helldur hefi eg siálfur heyrt, lesid og veit, ad í bibliunni finnst í sannleika þad í lífsins ord, sem gefid er oss af Gudi til vorrar sálarheilla. Drottinn leidbeini øllum hreinskilnum bibliulesurum med liósi síns anda, til þessarar ávaxtarsømu eiginnreynslu! Amen!

---

Kaupmannahøfn 1822. Prentad hiá P. E. Rangel.